*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist !*

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

*Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)*

5. mars - 20. mars 1979 5. tbl. 200 kr.

**Baráttufundur 8. mars-hreyfingarinnar og Rauðsokka í Félagsstofnun stúdenta 8. mars kl. 20.30**



4

## Kína — Víetnam:

# Kínverska gagnárásin á fullan rétt á sér!

AÐGERÐIR KÍNA

Aðgerðir Kína eru svar við árásum Víetnama. S.l. sex mánuði hafa Víetnamar gert rúmlega 700 árásir á kínverskt land. Þessar árásir hafa kostað yfir 300 Kínverja lífið, auk margvíslegs eignartjóns.

Kínverjar hafa haldið að sér höndum og varað Víetnama við afleiðingum árásarstefnunnar og sagt að Kína ráðist ekki á neinn að fyrra bragði - en það svari fyrir sig ef á það er ráðist.

Það hefur nú gerst. Víetnömsku árásarseggirnir hafa verið hraktir til baka og hernaðarmannvirki þeirra eyðilögð.

Kína sækist ekki eftir einum einasta þumlungi af víetnömsku landi, og þeir hyggjast ekki steypa ríkisstjórn Víetnam. Það er því engann veginn hægt að líkja saman aðgerðum Kínverja og hernaðarumsvifum heimsvaldaríkja og þeirra leppa. Hernaður heimsvaldasinnanna beinist að því að svipta ríki sjálfsákvörðunarrétti sínum og ná þar yfirráðum eða ítökum.

Engu slíku er til að dreifa af hálfu Kína - sú staðreynd að Kínverjar draga herlið sitt til baka sýnir það.

Víetnam er ekki fyrsti nágranninn sem ögrar Kína. Árið 1962 réðust indverskir herflokkar inn í Kína og reyndu að hernema land og byggja hernaðarmannvirki til árása á Kína. Eftir margítrekaðar aðvaranir til Indverja, án árangurs þá réðust kínversk herfylki gegn Indverjum,

7



25. ágúst í fyrra. Víetnömsk stjórnvöld skipulögðu sveitir, skipaðar hundruðum þúsunda hermanna og lögreglumanna, til að kúga og flæma burt fólk af kínversku þjóðunum, sem búsett var í Víetnam.

## Alþýðubandalagið í Kópavogi: Félagshyggja eða tæknikratar?

Nýverið varð uppistand í Alþýðubandalaginu í Kópavogi. Forseti bæjarstjórnar Kópavogs, Helga Sigurjónsdóttir ásamt fleirum sögðu af sér embættum og hættu bæjarmálastarfi sínu í óþökk stjórnar AB-félagsins í Kópavogi og að því er virðist meirihluta félaga. Lið Helgu kallar sig félagshyggjufólk en hina tæknikrata.

7



"Öreigar"

## Vinnur að gerð myndaflokks um íslenskt verkafólk

5

## Félagsfundur í Sókn:

# Kauphækkun rýr, en andstaðan vex ört

Sem kunnugt er sögðu Sóknarkonur samningum sínum lausum í kjölfar Akranessverkfallsins og hafa síðan staðið í samningaviðræðum. Miklar umræður hafa spunnist, m.a. í blöðum, um kröfugerð Sóknar í þessum samningum, en kröfurnar þóttu lágar og í ósamræmi við það markmið að ná launajafnrétti við starfsfólk innan BSRB í hliðstæðum störfum, en það tekur laun skv. 5. launaflokki.

Á félagsfundi 28. feb. lágu fyrir nýundirritaðir samningar. Þeir fólu í sér mikinn afslátt frá upphaflegum kröfum, þótt lágar væru. Þær gerðu ráð fyrir launum frá um 168 þús. til 207 þús. með mjög örum starfs-

7

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



Ritstjórnarskrifstofa er á
Baldursgötu 7A, sími 28962
Opin þriðjudaga frá kl. 5—7 síðdegis

# Vörn er liður í sókn verkalýðsins

Efnahagsfrumvarp ríkisstjórnarinnar er nú í burðarliðnum. Eik(m-l) lýstu yfir andstöðu við efni þess í leiðara síðasta tölublaðs Verkalýðsblaðsins og hvöttu vinnandi fólk til baráttu gegn því.

Frumvarpið er liður í aðgerðum íslensks auðvalds til að verjast þróun í átt til kreppu - þ.e. til efnahagsástands sem einkennist af offramleiðslu, birgðasöfnun, verðfalli, gjaldþrotum og fjárskorti fyrirtækja - launalækkun og atvinnuleysi. Merki þessa sjást nú þegar, og er auðstéttinni og ríkisvaldi hennar mikið í mun að sækja fé í vasa alþýðunnar til að mæta þessu. Heppnist það getur arðránsstéttin dregið úr áföllum hjá sér - en hún getur ekki komist hjá kreppunni. Og víst er að kjör verkalýðsins og annarrar vinnandi alþýðu versna í samræmi við árangurinn.

Hverjar eru helstu árásirnar, sem í frumvarpinu felast ?

### Hert stéttasamvinna.

Frumvarpið vill binda í lög svokölluð "samráð aðila vinnumarkaðarins", sem stjórnvöld og fölsku verkalýðsflokkarnir hafa rekið áróður fyrir. Skal það gert með svonefndu Kjaramálaráði, sem á m.a. að marka efnahagsstefnu, fara yfir opinberar fjárhagsáætlanir o.fl. til þess að geta stungið út kjarasamninga. Með þessu er verið að auka aðild ríkisins að almennum kjarasamningum, þrengja samningsréttinn og binda verkafólk enn fastar á klafa samvinnu milli hinna ósættanlegu stétta. Þannig er frumkvæði, sjálfstæð kröfugerð og virk barátta stéttarfélaga og sambanda skert verulega. Þessi stefna er algjörlega andstæð hagsmunum vinnandi fólks. Andstaða Alþýðubandalagsins og æðstu forystumanna verkalýðshreyfingarinnar við stofnun ráðsins er vissulega einhvers virði, en hún býður líka heim öðru formi stéttasamvinnu og er ekki andstæð öðru en þessu ákveðna formi hennar. Almenn andstaða gegn þessum hluta frumvarpsins og gegn allri stéttasamvinnu er lykill að nýrri og betri baráttustöðu. Við heitum á baráttusinna að vinna að ályktunum félagsstjórna og félagsfunda gegn stéttasamvinnunni og baráttu gegn henni.

### MINNI RÍKISÚTGJÖLD BITNA Á ALÞÝÐUNNI.

Um leið og auka á aðstoð ríkisins við auðfyrirtækin, á að minnka fjárhagsumsvif þess. M.a. á að spara af rekstrarfé ríkisstofnanna og minnka fjárfestingar ríkisins niðurfyrir 25% af þjóðarframleiðslunni (var 27% 1978 og 34% 1975) Hvorugt er hægt að gera án þess að minnka félagsþjónustu, skerða framlög til mikilvægra stofnana og sjóða og herða vinnuálag eða bæta ekki úr lélegri aðstöðu stofnana. Í mörgum tilvikum verður því um beinar kjara og hagsmunaárásir að ræða.

Þá má benda á fleiri þætti. Útlán úr ýmsum fjárfestingasjóðum eiga nú að miðast við arðsemi þess fyrirtækis eða áætlunar sem í hlut á. Með þeim getur ríkið neitað frekar en hingað til um fé t.d. til framkvæmda á smástöðum úti á landi. Allar nefndar ráðstafanir leiða óhjákvæmilega til atvinnuleysis, enda er það auðvaldinu nauðsynleg leið út úr kreppunni.

Andstaða Alþýðubandalagsins við samdrátt í ríkisrekstri á sumum sviðum kann að hafa áhrif á endanleg efnahagslög. Hins vegar er flokkurinn bæði fylgjandi "sparnaði" og minnkun fjárfestinga annars staðar en í atvinnurekstri. Það er líka í samræmi við "sósíalisma" AB sem kallar ríkiskapitalisma sinn "félagslegan rekstur".

Mikilvægt er því að berjast gegn hvers kyns niðurskurði, atvinnumissi, uppsögnum o.s.frv. innan ríkisstofnanna og gegn skerðingu á félagsþjónustu hvarvetna.

### MEIRA KAUPRÁN

Ríkisstjórnin þorir ekki að banna kauphækkanir. Í stað þess á að sundra verðbótavísitölunni og minnka kaupmátt launa með minnkuðum verðbótum. Taka á úr verðbótagrunninum óbeina skatta (t.d. söluskatt), öll gjöld og niðurgreiðslur, hluta búvöruverðhækkanna o.-fl. Þannig má taka mikið fé af fólki án bóta. Verðbætur verða ávallt reiknaðar á febrúarlaun 1979 en ekki umsamin laun á hverjum tíma, og fari þær yfir 5% skal "frysta" afganginn í 9 mánuði (óverðtryggðan !) Loks á að miða verðbætur við viðskiptakjör við útlönd, sem eru fyrirsjáanlega neikvæð vegna kreppuþróunar í helstu viðskiptalöndum Íslands. Í öllum tilvikum er um stórfellt kauprán og samningsrof að ræða.

Stéttasamvinnuforingjarnir í verkalýðshreyfingunni eru ekki sammála öllum þessum aðförum og getur það komið í veg fyrir lögbindingu einhverra þeirra. Þeir vilja hins vegar endurskoðun á verðbótakerfinu og t.d. AB er fylgjandi viðmiðun við viðskiptakjör. Meginatriðið er því að vekja upp aðgerðir og ályktanir meðal fjöldans sem krefjast óbreytts kaupmáttar og fullra vísitölubóta skv. óbreyttri verðbótavísitölu.

### VARNARBARÁTTA

EIK(m-l) leggja áherslu á að nú sé þörf varnar - en ekki sóknarbaráttu. Það verður að verja kaupmátt síðustu almennu kjarasamninga stéttarfélaganna, berjast fyrir fullri atvinnu og gegn skerðingu opinberrar þjónustu og verðhækkunum. Áherslan á sókn vinnandi fólks, sem fram kom í síðasta leiðara Verkalýðsblaðsins, er röng nú - sókn á að vera megin hreyfingin til langstíma. Í henni skiptist á vörn og áhlaup.

Framkv.n. miðstjórnar
28.2.

# Sem víðtækasta samfylkingu 1. maí!

Í samræmi við samþykktir þátttakenda í Samfylkingu 1. maí 1978,hefur stjórn hennar ákveðið að boða til almenns liðsfundar til að ræða undirbúning og tilhögun aðgerða 1. maí í ár.

Stjórnin telur mikilvægt,að vinna að sem mestri einingu verkalýðs og annarrar alþýðu í komandi 1.maí-aðgerðum og undirbúningsstarfi þeirra. Eining þessi verður að byggjast á traustum grunni samstöðu gegn auðvaldi,stéttasamvinnu og heimsvaldastefnu. Stjórnin telur mikilvægt,að sameina þau öfl,sem risið hafa til baráttu á þessum grunni á undangengnu ári, svo sem stéttarfélög,nemendafélög,stjórnmálafélög og hópa verkafólks,sem risið hafa til baráttu gegn kjararánsstefnu auðvaldsins og undirlægjuhætti verkalýðsforystunnar.

Stjórnin telur rétt að leggja mesta áherslu á málefni,sem tengjast kjararáns- og samdráttarstefnu ríkisvaldsins,en því næst baráttunni gegn heimsvaldastefnunni. Meðal kjörorða, sem stjórnin leggur til að verði borin eru:

- Eining á grundvelli stéttabaráttu. - Gegn stéttasamvinnunni-endurreisum stéttarfélögin sem baráttutæki. - Gegn kjararáns og samdráttarstefnu auðvaldsins. - Samningana í gildi. - Til baráttu gegn allri kvennakúgun. - Gegn allri heimsvaldastefnu. - Til baráttu gegn yfirgangs- og stríðsstefnu risaveldanna. - Ísland úr NATO-herinn burt. - Styðjum baráttu alþýðunnar í þriðja heiminum.(Erítreu, Kampútseu,Grænlandi,Palestínu, og Zimbabve).- Gegn erlendri stóriðju. - Gegn eyðingu fiskistofna. - Til baráttu fyrir sósíalísku Íslandi.

Auk þessa er mikilvægt að koma með kröfur,sem ekki eru svo almennar,svo og sérkröfur einstakra hópa,sem þurfa að fá mikið rúm.

Sem áður segir,boðar Samfylking til fundar liðsmanna sinna,miðvikudaginn 21.þ.m. að Hótel Esju,kl.8.3o,þar sem ætlunin er,að þessi mál verði rædd og endanlegar niðurstöður fyrir starfið mótaðar.

Stjórn Samfylkingar 1.maí.

# Mislukkaður samstöðufundur!

28. febrúar boðuðu Fylkingin, Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu og nokkrir félagar úr Alþýðubandalaginu til samstöðufundar með Víetnam vegna aðgerða Kínverja. Samstaða fundarmanna, 1o5 talsins, með Víetnam var þó með minnsta móti. Í fyrsta lagi þá eyddi annar framsögumaðurinn, trotskistinn Halldór Guðmundsson, drjúgum hluta af tíma sínum til að ráðast á hið "stalíníska skrifræði" í Víetnam - og í öðru lagi greiddu aðeins 59 fundarmanna tillögu fundarboðenda, um fordæmingu á aðgerðum Kína, atkvæði sitt. 24 voru á móti og afgangurinn sat hjá. Ekki gátu fundarboðendur sætt sig við að tillaga um að Víetnam drægi herlið sitt frá Kampútseu yrði borin upp og komu með frávísunartillögu sem hlaut 44 atkvæði gegn 26. Meirihluti þeirra sem tóku til máls á fundinum voru á móti tilbúningi fundarboðenda um "samstöðuna" með Víetnam. Sýndu þeir fram á að samstaðan beinist óhjákvæmilega inn á vafasamar brautir þegar Víetnam er hvítþvegið af allri synd - og allri sök komið í heimavist í Bejing (Peking).

### AGENTAR SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNUNNAR MÆTTIR.

Það vakti athygli að fulltrúar Sovétríkjanna voru mættir á staðinn til að fylgjast með "samstöðunni". Sátu þeir til borðs með Borgþóri Kjærnested og skrifuðu niður frétt fyrir APN um "samstöðuna" á Íslandi. Mæting þeirra sýnir að áhugamál þeirra eru hin sömu og þeirra "Víetnamvina" sem nú reyna að nýta þetta tækifæri til árása gegn Kína. Fundarboðendur áttu fá orð til að lýsa hlut Sovétríkjanna í málum Víetnam í dag.

Að loknum fundinum fóru 35-4o manns í blysför að kínverska sendiráðinu - eftir hvatningu Ragnars Stefánssonar. Við sendiráðið var hrópað gegn Carter og Deng Xiaoping ( enda telja sumir fundarboðenda að Kína sé að ganga erinda Bandaríkjanna) - loks stakk Örn Ólafsson ályktun 59 menninganna í póstlúgu sendiráðsins og Róska reyndi að stinga logandi blysi í sömu rifu.

Uppistaða mótmælanna voru félagar Fylkingarinnar. Sést á því að þau samtök eru með dyggari fylgifiskum sósíalheimsvaldastefnunnar hér á landi.

# Leiðrétting

UNDIRSKRIFTASÖFNUNIN EKKI Á VEGUM 8.MARS-HREYFINGAR - EN FÉLAGAR ÚR HENNI HRUNDU HENNI AF STAÐ.

Í síðasta tölublaði var fjallað rækilega um niðurskurðinn í félagsmálum Reykjavíkur. Okkur hefur verið bent á þá ónákvæmni á tveim stöðum í þessu tbl., að 8.-mars-hreyfingin er sögð hafa komið undirskriftasöfnuninni gegn lokun Útideildarinnar, Meðferðarheimilisins og Mæðraheimilisins af stað. Það er rangt. Í lok liðsfundar 8.mars-hreyfingarinnar þann 8.febr. s.l., þegar allflestir fundarmenn voru farnir, hafi þeirri hugmynd skotið upp að koma af stað undirskriftasöfnun. Þar sem fundi var í raun lokið, var þetta ekki borið upp til samþykktar, heldur hafi þeir einstaklingar sem þarna voru ákveðið að leita til fleiri um að koma undirskriftasöfnun af stað. Var það gert og myndaður hópur um málið, óháður 8.mars-hreyfingunni sem slíkri, þótt í undirbúningshópnum hafi auk annarra verið nokkrir félagar 8.mars-hreyfingarinnar.

# Stöðnun í sam einingarbaráttunni

Fyrir skömmu gaf Október s/f út síðasta opna bréf EIK(m-l) til svonefnds Kommúnistaflokks Íslands. Við hvetjum alla sem áhuga hafa á semeiningu samtakanna beggja að nálgast bréfið - en það fæst í Október-búðinni að Óðinsgötu 3o í Rvk. - eða sent gegn beiðni.

Nú er orðið ljóst að mál EIK(m-l) og "flokksins" hafa staðnað og engin hreyfing sjáanleg í sameiningarbaráttunni í bili. Nú síðast neitaði "KFÍ/ML" að mæta til kappræðufundarins 24.febrúar s.l. um KSML (forvera "KFÍ/ML") en hann hafði áður samþykkt tilboð okkar.

Í næsta tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS mun framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) birta nýtt tilboð til "KFÍ/ML" sem við vonum að þoki málum framávið.

Framkv.n. miðstjórnar
28.2.



5. tbl. 5. mars - 20. mars 1979

# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

# Svört skýrsla og „þjóðarhagur“

Að undanförnu hafa orðið nokkrar umræður um skýrslu Hafrannsóknarstofnunnar um ástand nytjastofna á Íslands-miðum og aflahorfur. Í skýrslunni er lagt til að þorskaflinn í ár verði takmarkaður við 25o þús. tonn og síðan 27o þús. tonn á næsta ári. Við grípum hér niður á nokkrum stöðum í þeim hluta skýrslunnar sem fjallar um þorskinn ef það skyldi verða lesendum til glöggvunar á því hversu alvarlegt ástandið er metið.

Á bls. 7 segir: "Árið 1978 var heildaraflinn áætlaður um 33o þús. tonn og hefur þorskaflinn ekki orðið eins lítill síðastliðin 3o ár. Á umræddu tímabili óx sóknin jafnt og þétt og náði hámarki 1975 ... Ástæða þess að aukin sókn skilaði ekki auknum afla, var minnkun þorskstofnsins. Þannig hefur heildarstofninn minnkað úr 2.6 millj. tonna árið 1955 í 1.2 millj. tonna árið 1978. Hrygningarstofni þorsksins hefur hins vegar hrakað enn meira eða úr 1 millj. tonna á árunum 1957-1959 í 165 þús. tonn árið 1978. Það eru einkum tvær orsakir hinnar minnkandi stofnstærðar: Í fyrsta lagi hefur þorskstofninn við Grænland verið lélegur undanfarin ár og mjög lítið af fiski gengið þaðan til hrygningar hingað. Í öðru lagi jókst sókn okkar í smáfisk, svo kynþroska þorski hefur farið fækkandi..."

Á bls. 1o segir um sóknina: "Sóknaraukning togaranna var orðin um 7% meiri tímabilið jan-nóv. 1978 en fyrir sama tímabil 1977. Sóknaraukning togaranna stafar fyrst og fremst af aukningu togaraflotans, en nokkur skip bættust í flotann í fyrra. Þessi sókanraukning hefur að langmestu leyti beinst að þorski, þar sem nær engin aukning hefur orðið á afla annarra botnlægra tegunda, sem hvatt hefur verið til að auka veiðar á, eins og t.d. karfa. Aflaaukning togaranna hefur ekki verið að sama skapi og sókanraukning þeirra og minnkaði afli á togtíma um 6% tímabilið jan-nóv. frá því árið 1977".

Fulltrúar ríkisvalds og fiskkaupenda hafa ítrekað hafnað þessum tillögum um uppbyggingu þorskstofnsins. Ólafur Jóhannesson gaf út þá yfirlýsingu á dögunum að hann teldi hæfilegan þorskafla um 3oo þús. tonn. Í sama streng tóku einnig tveir fyrrverandi sjávarútvegsráðherrar þeir Lúðvík Jósepsson og Matthías Bjarnason. Stjórnmálamennirnir og eigendur fiskvinnsluhúsa láta oft í það skína að uppbygging þorskstofnsins þurfi ekki að verða jafn hröð og tillögurnar gera ráð fyrir, það sé í lagi að fara sér hægar. Við lestur skýrslunnar kemur hins vegar í ljós að allar tillögurnar miðast að því að nýta þá tvo sterku uppvaxandi árganga sem vitað er um að til eru ( þ.e. árgangana 1973 og 1976), til að byggja upp stofninn. Hugmyndir ríkisvaldsins eru hins vegar þær að nýta ófædda árganga, og að treyst sé á að klak muni takast vel á komandi árum. En samfara því að hrygningarstofninn dregst saman minnka líkurnar á því stórlega.




Myndin sýnir þorskafla á Íslandsmiðum frá því um 1970. Efri línan sýnir heildarafla (bæði ísl. og erl. skipa), en sú neðri er þorskafli Íslendinga. Inn á myndina er sett það mark sem fiskifræðingar hafa lagt til að verði veitt árið 1979.

Sú röksemd hefur mikið verið að "þjóðarhagur" leyfi ekki neinn samdrátt í veiðum nú,og að þegar hafi verið gripið til víðtækra friðunarráðstafanna. Á meðfylgjandi mynd sést hins vegar að þorskafli ísl. togaranna hefur farið vaxandi allt frá því að fiskveiðilögsagan var færð út. Það aflamark sem fiskifræðingar telja æskilegt nú er hærra en heildaraflinn var árið 1974. En hvað þá með þjóðarhag? Hagsmunir íslensks verkafólks, sjómanna og fiskvinnslufólks um land allt eru ótvírætt, að ekki komi til hruns þorskstofnsins. Einokunarhringirnir í fiskiðnaðinum hafa hins vegar aðra hagsmuni. Þeir stefna að vaxandi gróða og sætta sig því ekki við minni afla,sem hefði óhjákvæmilega í för með sér minnkandi gróðahlutfall. - Afdrif íslenska þorskstofnsins valda þeim ekki teljandi áhyggjum. Enda geta þeir hæglega fært fjármagn sitt yfir í aðrar greinar ef til þess kæmi og stofninn hryndi.

- Afstaða stjórnmálamannanna er því aðeins bergmál af stefnu einokunarhringanna. Hagsmunir íslenskrar alþýðu eru aðrir.

# Hið íslenska kennarafélag ríður á vaðið

Eins og áður hefur verið sagt frá í VB hefur launamálaráð Bandalags háskólamanna ekki talið "ráðlegt" að skipuleggja neina verkfallsbaráttu launafólks í BHM meðan kjarasamningar þess hafa verið í meðförum ríkisvaldsins og Kjaradóms. Í stað þess veitti launamálaráð Kjaradómi frest til úrskurðar í þrjár vikur gegn því að "einhver" gæfi í skyn að vísitöluþakinu yrði lyft - sem síðan sýndi sig að vera blekking. Sóst var eftir frestinum til þess að ríkisstjórnin næði að samþykkja nýtt efnahagsfrumvarp - en stjórnin á líklega góða að í launamálaráði.

Nú hefur hins vegar afgreiðsla frumvarpsins dregist (fram yfir 1.mars) en mál BHM komið til afgreiðslu fyrir Kjaradómi. Er því von á úrskurði snemma í mars.

Hið ísl. kennarafélag (HÍK) er eitt stærsta félag BHM. Á stofnfundi þess nýverið var samþykkt að fela stjórn þess að halda kjaramálafund hið bráðasta. Það dróst í mánuð og var ekki úr bætt fyrr en undirskriftalistar höfðu gengið meðal kennara þriggja menntaskóla.

Á fundinum 26.febr. sl. voru frummælendur Jón Hannesson (form. launaráðs) og Ari T Guðmundsson. Gagnrýndi Ari hægagang BHM og dráttinn á fundi HÍK og lagði áherslu á að það skipti meginmáli fyrir félagsmenn að aðgerðir og upplýsingamiðlun færi fram. Hann sagði að meginbaráttan snérist um fullar vísitölubætur skv. óbreyttri verðbótavísitölu og grunnlaun í samræmi við síðustu kjarasamninga eins og þeir voru áður en ríkisvaldið hóf að krukka í þá. Fyrsta skrefið til að hnykkja á þessu væri eins dags verkfall á vegum BHM eða HÍK.

Jón útskýrði gerðir launamálaráðs, tók undir nokkuð af gagnrýni og tillögum Ara, en virtist ekki telja að öðru vísi hefði getað farið. Vakti það furðu að Jón taldi einhvers konar tengingu verðbóta við viðskiptakjör koma til greina, en gagnrýndi um leið veigamikla þætti efnahagsfrumvarps ríkisstjórnarinnar.

Tvær ályktanir voru samþykktar. Í ályktun stjórnar HÍK er m.a. deilt á vísitöluþakið, drátt á afgreiðslu samninga BHM o.fl. Fundurinn mótmælir aðför að kaupmætti launa og tengingu vísitölu verðbóta við viðskiptakjör og skorar á ríkisstarfsmenn að leggja niður vinnu, verði ríkið ekki við kröfum BHM. HÍK lýsir því yfir að félagið grípi til eigin aðgerða ef BHM geri það ekki.

Í síðari ályktuninni segir m.a. að launamálaráð verði að kynna stöðuna vel meðal aðildarfélaganna, kanna hug fólks til aðgerða og ráðið fastlega minnt á að verkfall verði að vera svarið við kjaraárásum eða afneitun á kröfum BHM.

Fundurinn var frekar fámennur, enda helst auglýstur í blöðum og útvarpi. Er augljóst að stjórn HÍK verður að temja sér starfsvirkni meðal deilda félagsins og hraða skipulagningu trúnaðarmannakerfis.

HÍK er fyrsta félagið innan BHM sem rís öndvert gegn kjaraárásum ríkisvaldsins svo fólk sjái. Nú verða önnur félög að taka sig til. Það eru síðustu forvöð.

Fréttaritari.

# Nýtt stéttarfélag

Stundakennarar við Kennaraháskólann hafa stofnað með sér samtök. Fyrsta verkefni samtakanna er að reyna að fá ríkið til að standa í skilum og greiða umsamdar launagreiðslur á réttum tíma. Á þessu hefur verið mikill misbrestur. T.d. telja nokkrir kennarar sig eiga inni fleiri hundruð þúsund fyrir kennslu á síðasta ári. Greiðslur fyrir janúar komu ekki fyrr en upp úr miðjum febrúar og annað eftir því.



# Álverkamenn mótmæla

UM HVAÐ VAR SAMIÐ?

Fimmtudaginn 22. febrúar skrifuðu trúnaðarmenn okkar undir drög að nýjum kjarasamningi við Íslenska álfélagið h.f.

Þar sem starfsmenn hjá ISAL eiga eftir að leggja endanlegan dóm á fyrirbærið væri gaman að skoða nánar helstu "kjarabæturnar".

1. Gert er ráð fyrir að framleiðslulaunaauki hækki um 3% við hagstæð skilyrði. Möguleiki er á að launaauki verði mun minni m.a. vegna stórhækkaðs olíuverðs.
2. Desembergreiðsla og endurgreiðsla orlofskostnaðar verða hvort fyrir sig sem svarar 2ja vikna launum í 9. launaflokki. Þessi breyting þýðir 2-3% launahækkun.
3. Óveruleg breyting var gerð á hlutfalli launaflokka ásamt smávegis lagfæringum öðrum.

Framangreind upptalning gerir rúmlega 5 % launaaukningu.

Upp á þetta er boðið eftir 8 % kaupgjaldsrán 1. desember 1978 og falsaða vísitölu 1. mars s.l.

Með þeim fáu krónum, sem við fáum í hækkuðu kaupi er gert ráð fyrir að við greiðum stórkostlegar hækkanir á gjöldum Pósts og síma, rafveitu og hitaveitu að ógleymdum hækkunum á fasteignagjöldum og útsvari. Síðast en ekki síst skulum við ekki gleyma ósamþykktu efnahagsfrumvarpi ríkisstjórnarinnar.

Til þess að starfsfólk ísl. álfélagsins h.f. samþykki nýja samninga þurfa að koma inn í kjarasamningana meiri bætur og leiðréttingar á launaflokkakerfinu.

UM HVAÐ Á AÐ SEMJA?

Til viðbótar þeirri kauphækkun, sem komin er nú þegar verða amk. eftirfarandi atriði að bætast við:

1. Starfsmenn flutningadeildar verði í 5. launaflokki og kaupauki greiddur þegar unnið er á þungavinnuvélum.
2. Skautsmiðja, kersmiðja og "heita hliðin" í steypuskála verði í 7. launaflokki.
3. Eftir dagvinnu komi yfirvinna með 80% álagi.
4. Framleiðsluauki fari aldrei niður fyrir 5 %
5. Vaktaálag greiðist á ferðapeninga.
6. Greiðsla orlofskostnaðar sé án skilyrða.
7. Ýmsar aðrar lagfæringar á kjarasamningi.

Þegar þessum kröfum er fullnægt segjum við já - fyrr ekki.

Þetta dreifirit var sent Verkalýðsblaðinu af fréttaritara blaðsins í Straumsvík.

# STALDRAÐ VIÐ

## „Engels búinn að vera!"?

"Engels hafði rangt fyrir sér. Hann vissi ekki það sem síðari tíma rannsóknir hafa leitt í ljós. Það er rangt að kúgun konunnar í hafi hafist með skiptingu fólks í stéttir eftir eignarhaldi á framleiðslutækjum. Kúgun konunnar hófst með verkaskiptingu karla og kvenna. Stéttarleg kúgun hófst líka með verkaskipingunni. Verkaskiptingunni – og þar með kvennakúgun og stéttarkúgun – er viðhaldið með fjölskylduformi hins borgaralega þjóðfélags dagsins í dag."

Þessi var boðskapur Rauðsokka og trotta á kappræðufundinum hjá EIK(m-l) sem við hjónin skruppum á fyrir nokkru.

– Hvers konar málflutningur er þetta? spurðum við sjálf okkur, eftir að heim var komið. – Höfum við vaðið í villu og svíma? Ef Engels hafði rangt fyrir sér í þessu, hvað þá með alla hina, sem hafa haldið því sama fram – Marx, Lenín, Stalín, Maó? Og er þetta ekki veigamikill hluti fræðikenningar kommúnismans? Er hún þá öll röng?



Við náðum okkur í Úrvalsritin. Það er ómögulegt að kingja þessu, nema athuga hvað Engels gamli sagði. Jú, hér er ágætur bútur:

"En þetta (þ.e. einkvænið) var fyrsta fjölskylduskipanin sem bundin var hagrænum skilyrðum. Hún byggðist á sigri séreignarskipulagsins yfir fornri og upprunalegri sameign... Sérhjúskapur varð til við það, að auður safnaðist á einstakra manna hendur, og er þá átt við karlmennina... Hins vegar mun sérhjúskapurinn (þ.e. kommúnismanum) missa öll þau einkenni er runnin eru frá eignarskipan þeirri, sem öll hann af sér... Karlræðið í hjónabandinu er bein afleiðing fjárhagslegra yfirráða og hverfur með þeim af sjálfu sér." (F.Engels: Uppruni fjölskyldunnar einkaeignarinnar og ríkisins, Í Úrvalsritum Marx og Engels, bls. 395, 404 og 410).

Nú, hvað er svo sem rangt við þetta? Auðvitað er þetta rétt hjá Engels gamla. Hvernig ætti annað að vera? Ef háfleygar kenningar Fylkingar og Rauðsokka "sósíalista" væri rétt, þá ætti að vera hægt að skapa kommúnískt samfélag – stéttlaust samfélag? Verkaskipting hlýtur alltaf að verða fyrir hendi. Eða á ég að þurfa að skreppa til Íran til að fá bensín á bílinn eða til Kína til að fá korn í brauðið mitt? Og ef kvennakúgun byggist á verkaskiptingu, hvernig á þá að vera hægt að vinna bug á henni? Ekki fæða karlmenn börn? Eða kannski það sé takmark Rauðsokka að finna leiðir til þess. Eitt ágætt skáld fyrir norðan hefur lagt út af því:

"Rauðsokka með rjóða kinn
...fst um brautargengi,
við að barna bónda sinn
baukað hefur lengi."

Hjón – eða segjum bara karl og kona sem búa saman um stund eða lengur – hljóta alltaf að skipta eitthvað með sér verkum. Og hvort verkið hefur þá í för með sér að sá sem framkvæmir það sé kúgaður? Er bleyjuþvottur kúgun? Er bílaviðgerð kúgun? Er það kúgun að klæða börn í föt? Er það kúgun að kenna börnum stafrófið? Nei, þetta tekur engan enda. Fáránleikinn í þessari miklu heimssýn Rauðsokka gengur ekki í okkar hörðu kommahausa.

En við erum auðvitað sammála því að það sé rangt að öll tilfinnanleg verk skiptist í kvennastörf og karlastörf. En það eru ekki verkin sjálf sem eru kúgandi, heldur þær hugmyndir sem liggja að baki því að verkunum er þannig skipt. Og þær hugmyndir eru ekki einber tilviljun, send af himnum ofan, heldur liður í þeirri hugmyndafræði, sem notuð er stéttarkúguninni til viðhalds.

En fjölskyldan? Ég hef engar mætur á kynferðislegum stóðlifnaði, en ég hef alltaf verið dálítið veikur fyrir tilraunum til annars sambýlisforms en kjarnafjölskyldan. Ég orða það við konuna. Hún svarar:

–Auðvitað eru mörg önnur sambýlisform til en kjarnafjölskyldan, og auðvitað er sjálfsagt að fólk hagi heimilishaldi eins og því best þykir, hafi samstarf um matargerð, barnagæslu og margt fleira, þar sem aðstæður eru til. En það er fjandanum erfiðara að koma slíku við, eins og hús, götur og hverfi eru skipulögð. Hitt er svo aftur ljóst að breytt sambýlisform færri eða fleiri einstaklinga breytir engu um grundvöll þjóðfélagsins. Verkamaðurinn er jafn kúgaður af atvinnurekandanum, hvort sem hann býr í kommúnu eða kjarnafjölskyldu. Og frystihúskonan er jafn mikið kúguð og notuð sem varavinnuafl, hvort sem hún býr í íbúð með manni sínum og börnum eða með fleirum. Þegar trottarnir segja að fjölskylduformið viðhaldi kvennakúguninni og stéttakúgun á verkafólki, snúa þeir málinu á haus. Það væri nær að segja að stéttarkúgunin viðhaldi óbreyttu fjölskylduformi.

En, bætir hún við, – það er allt annað mál, hvernig á fjölskylduformi verður háttað í framtíðarþjóðfélaginu, í kommúnismanum. Margt sem nú er bundið fjölskyldunni, verður vafalaust samfélagslegt, svo sem miklu stærri hluti af uppeldi barna.

Meginatriðið er að innihald og tilgangur fjölskyldunnar sem heildar verður allt annar í kommúnismanum.

Við erum sammála. Málið er útrætt að sinni.

Finnur

# Dagvistarsamstarfið:

## Söfnun undirskrifta frá 8. mars – ganga – 24. mars

Eins og frá var greint í 4. tbl. Verkalýðsblaðsins átti 8. mars-hreyfingin frumkvæði að stofnun samstarfsnefndar um dagvistarmál. Starf þessarar nefndar er nú komið allvel af stað, svo að við snérum okkur til fulltrúa 8. mars-hreyfingarinnar í samstarfsnefndinni og spurðum frétta.

–Við megum vel við una um undirtektir. Við sendum upphaflega út ein 65 bréf, þar sem við buðum til samstarfs. Nú sem stendur er staðan þannig að átta hreyfingar hafa tekið ákvörðun um þátttöku, en auk þeirra hafa tíu aðrar tekið þátt í starfinu, en ekki fengið þátttöku sína formlega samþykkta af stjórnum eða félagsfundum. Í fyrri hópnum eru auk 8. mars-hreyfingarinnar, Íbúasamtök Vesturbæjar, Stéttar félag íslenskra félagsráðgjafa, Rauðsokkahreyfingin, Íbúasamtök Þingholtanna, Sjúkraliðafélag Íslands, Nemendaráð Kennaraháskólans og Framfarafélag Breiðholts. Í síðari hópnum eru Fósturfélag Íslands, Félag einstæðra foreldra, Fósturnemafélagið, Iðnnemasambandið, stjórn SÍNE, SHÍ, Torfusamtökin, starfshópur dagmamma. Sjálfsbjörg og Jafnréttisráð. Við í 8. mars hreyfingunni vonum að enn fleiri bætist við. Einkum finnst okkur vanta að fleiri verkalýðs- og stéttarfélög verði með. Þetta ætti jú að vera þeirra mál, engu síður en þeirra félaga, sem þegar eru komnir í hópinn.

UNDIRSKRIFTASÖFNUN OG MERKJASALA

–Við höfum ákveðið að standa fyrir undirskriftasöfnun þar sem krafist verði úrbóta í dagvistarmálum. Söfnunin fer af stað á alþjóðlegum baráttudegi verkakvenna, 8. mars, og mun standa í eina tvo mánuði. Við höfum talað um 1. maí í því sambandi. Markmiðið er 15–20 þúsund undirskriftir. Það er ljóst að til þess þarf mikið starf, en með allar þessar hreyfingar að baki ætti það að takast.

–Til að fjármagna starfið höfum við ákveðið að gefa út merki. Það er þegar búið að teikna það, og við vonum að það verði komið í sölu 8. mars.

AÐGERÐIR

–Verða útiaðgerðir 8. mars, eins og minnst hefur verið á?

–Nei, það var ákveðið að gefa slíkum aðgerðum aðeins betri tíma, svo að hægt væri að undirbúa þær betur. Við höfum því ákveðið laugardaginn 24. mars. Hins vegar er ekki fullfrágengið, hvernig aðgerðirnar verða, en líklega verður ganga, stutt ávörp og skemmtidagskrá og væntanlega eitthvað fleira. Hugmyndir um hvað hægt væri að gera eru vel þegnar.

Við erum hins vegar búin að ákveða að kjörorð þessara aðgerða verði hið sama og samstarfsins alls, nefnilega "Næg og góð dagvistarheimili fyrir öll börn". Auk þess hafa eftirtaldar kröfur verið ákveðnar til að hafa í aðgerðunum:

1. Fleiri dagvistarheimili í öll hverfi!
2. Fleiri skóladagheimili strax!
3. Gegn niðurskurði borgaryfirvalda á framlögum til dagvistarmála!
4. Færri börn á hverja deild!
5. Betri námsaðstöðu fyrir fósturnema!
6. Allt fósturnám á háskólastig!
7. Bætt kjör og vinnuaðstöðu fyrir fóstrur!
8. Betri aðstöðu á gæsluvöllum!
9. Jafnréttisuppeldi!

TÖKUM ÞÁTT!

Verkalýðsblaðið lýsir yfir fullum stuðningi sínum við það samstarf sem þarna hefur tekist um dagvistarmál. Við hvetjum sem allra flesta til að taka þátt í aðgerðum og starfi samstarfsins. Sérstaklega viljum við hvetja fólk til að knýja á um að taka upp stuðning við þetta samstarf á félagsfundum í stéttarfélögum sínum og láta þá sem í forystu félaganna sitja ekki komast upp með að þegja málið í hel. Hér er þörf á sem allra breiðastri samstöðu. Hvers vegna hafa til dæmis félög eins og Iðja, Framsókn Sókn, Verslunarmannafélagið, Hjúkrunarfræðingafélagið, Dagsbrún o.fl. ekki enn látið neitt í sér heyra?



"Mengun"

"Myndefnin eru yfirleitt þjóðfélagslegs eðlis, og sá veruleiki sem við búum við í dag er dreginn upp á ljósan hátt. Það er lögð mikil áhersla á að draga fram andstæður þjóðfélagsins , bilið á milli ríkra og fátækra, svangra og saddra. Stríðið og stríðshættan sem alltaf vofir yfir koma einnig skýrt fram í myndunum, og þær afleiðingar sem af stríðinu hljótast".

Þessi klausa er tekin úr sýningarskrá myndlistarmannsins Sigurðar Þóris Sigurðarsonar, sem (þegar þetta er skrifað) hefur nýlega opnað sína 9. einkasýningu á Ísafirði. Þar áður sýndi hann list sína á Akranesi og Þorlákshöfn og þar áður í Reykjavík, Kaupmannahöfn og Færeyjum. Og satt er það, viðfangsefni Sigurðar Þóris eru góð tilbreyting frá Þingvallamálaríi hinna eldri listamanna, sem sjá má á sýningum í hverri viku, og einnig tilbreyting frá naflaskoðun listamanna af yngri kynslóðinni. Verk Sigurðar Þóris orka sterkt á mann, fá mann til að hugsa – og framkvæma. Þar sýnir hann vinnandi fólk við störf, andstæður ríkra og fátækra, hörmungar styrjaldarbrölts heimsvaldastefnunnar o.fl.

Blaðið spurði Sigurð Þóri um það, hvenær hann hefði farið að draga þjóðfélagsmál inn í list sína.



Sigurður Þórir og dóttirin Helga. Fyrir ofan þau hanga tvær myndir úr myndaflokknum um verkafólk og störf þess.

# Vinnur að gerð mynda flokks um íslenskt verkafólk

## Rætt við Sigurð Þóri, myndlistarmann:

– Ég byrjaði á meðvitaðri pólitískri myndlist í Þorlákshöfn, er ég dvaldi þar fyrir nokkrum árum. Þá fór ég að velta 3ja heiminum fyrir mér, reyna að túlka ótryggt ástand sem alþýða 3ja heimsins býr við: styrjaldir, hungursneyðir, og hvers kyns hörmungar. Svo kom að því að ég gerði myndaseríu um Varið land og dró inn í hana áhrif Bandaríkjanna, NATO og CIA á Íslandi og reyndi að sýna ósjálfstæði Íslands gagnvart heimsvaldastefnu Bandaríkjanna. Þetta tel ég vera fyrsta meðvitaða pólitíska verkefnið mitt.

Myndaserían, sem ég er að sýna núna á Ísafirði, er um stríð og afleiðingar stríðs. Þær myndir eru gerðar á árunum 1976 og 1977.

SERÍA UM VERKAMANNAVINNU

Ert þú að vinna að einhverju sérstöku þessa stundina?

– Já , í fyrra byrjaði ég á seríu mynda um verkafólk og verkamannavinnu. Ég fór á vinnustaði og tók litskuggamyndir af fólki við margs konar störf. Síðan valdi ég [illegible] skuggamyndunum og er [illegible] í grafík og olíu eftir þeim. Þetta verða líklega 50–60 myndir í allt, en talsvert langt er í að verkinu ljúki og þetta geti farið á sýningu.

Það má ef til vill eiga von á sýningu síðari hluta ársins?

– Nei, ætli það verði fyrr en á síðari hluta ársins 1980. En mig langar um leið að sýna vinnubrögðin sem ég hefi beitt við gerð myndanna og sýna skuggamyndirnar og þróun myndarinnar frá því að verða skissa í fullgerða mynd. Mér finnst skorta mikið á að listamenn kynni áhorfendum "fæðingarhríðir" verka sinna.

"FÓLK ER HISSA Á PÓLITÍSKRI LIST"

Hver eru viðbrögð gesta á sýningum þínum við verkunum sem þar eru?

– Almennur áhorfandi segir mér yfirleitt lítið, hugsar ef til vill meira. En ég hefi oft heyrt eitthvað á þessa leið: "Þetta eru vel gerðar og góðar myndir, en ekki vildi ég hafa þær uppi á vegg hjá mér". Fólk er óvant því að listin sé notuð sem markvisst pólitískt tæki og er hissa. Sú list sem menn eru vanastir úr umhverfi sínu leggur áherslu á formið, en innihaldslega er borgaraleg list hluti þess kerfis borgarastéttarinnar sem innrætir fólki sátt við þjóðfélag auðs og arðráns. Andstæð borgaralegri list er sú sem tekur afstöðu með arðrændum og kúguðum. Hún leggur höfuðáherslu á innihaldið, en þó verður listamaðurinn ætíð að hafa formið í huga og láta innihald og form vinna saman sem eina heild.

Hefur listsköpun þín breyst á einhvern hátt innihaldslega á síðustu árum?

– Myndirnar mínar breyttust auðvitað mjög mikið eftir að ég fór að velta fyrir mér málefnum 3ja heimsins, en síðan breyttist innihaldið enn eftir að ég hafði tekið afstöðu sem marx-lenínisti. Þá breyttist allt viðhorf til lista og ég fór að líta á starf mitt sem hluta af starfi hinnar ungu kommúnísku hreyfingar á Íslandi. Mér finnst ég sjá hvar þörf er fyrir pólitíska listsköpun í samræmi við það.

Allt of margir vel meinandi listamenn loka sig af og einskorða sig við eitthvað ákveðið verkefni sem aðeins er lítill hluti af þeirri þjóðfélagsgagnrýni og baráttu sem þarf að fara fram. Starf þeirra nýttist mun betur í tengslum við starf kommúnísku hreyfingarinnar og hugmyndafræði marx-lenínismans myndi opna þeim nýjan heim. Sem sagt: Baráttusinnaðir listamenn hafa þörf fyrir kommúnísku hreyfinguna og hreyfingin þarfnast þeirra. Listamennirnir eiga leik!

# Fróðlegur fundur um kínversk heilbrigðismál:

## „Í Kína finnst ekki sálfræðingur – þar myndi Albert líka lífið!"

**Kínversk-íslenska félagið (KÍM) hélt félagsfund 27.feb.,** þar sem Páll Ásgeirsson, barnageðlæknir, mætti og fjallaði um heilbrigðiskerfið í Kína. Páll fór á s.l.ári til Kína ásamt læknunum Eyjólfi Haraldssyni og Guðmundi B.Guðmundssyni, í boði kínverskra stjórnvalda og kynntu sér eftir megni **ýmsar hliðar á kínversku** heilbrigðiskerfi.

Fyrirlestur Páls var sérlega fróðlegur og skemmtilegur á að hlýða og fundargestir urðu margs vísari um þessa hlið Alþýðulýðveldisins Kína. Páll virtist hafa fengið ágæta heildarmynd af heilbrigðiskerfinu,bæði með heimsókninni og lestri eftir hana,og gerði góða grein fyrir veikum og sterkum hliðum kerfisins.



Páll Ásgeirsson barnageðlæknir

Óvíða sáu læknarnir þróaðar sérdeildir á heilbrigðisstofnunum á borð við þær sem þekkjast á Vesturlöndum. Mikil áhersla er lögð á fyrirbyggjandi aðgerðir gegn sjúkdómum, með uppfræðslu almennings, eftirliti með að frumstæðustu heilbrigðismálum sé sinnt, bólusetningu o.s.frv. Mikilvægur liður í heilbrigðiskerfinu eru "berfættu læknarnir" en það er fólk sem þjálfað er til þess að sinna uppfræðslustarfi og undirstöðuatriðum í heilsugæslu og læknisþjónustu. Kínverjum hefur tekist að útrýma mörgum sóttum og sjúkdómum sem herjuðu áður og nú er lögð mjög mikil áhersla á að efla enn þekkinguna á læknisfræðum og tileinka sér þá þekkingu sem útlendingar búa yfir. Því fara hraðvaxandi samskipti vísindamanna í Kína við vísindamenn í öðrum löndum.

Á heilbrigðissviðinu, hefur glögglega komið fram skaðleg stefna "fjórmenningaklíkunnar" svokölluðu. Að undirlagi þeirra urðu alvarleg skakkaföll á flestum sviðum þjóðlífsins, skakkaföll sem tekur langan tíma að bæta úr. Í menningarbyltingunni á síðasta áratug stóðu háskólar Kína hálftómir og þá var t.d. læknanámið stytt úr 6 árum í 3 ár. "Fjórmenningarnir"

frh. á bls. 7

# Sameiginlegur baráttufundur 8. mars

Sem kunnugt er hafa verið umræður uppi um sameiginlegar aðgerðir 8.mars-hreyfingarinnar og Rauðsokkahreyfingarinnar á alþjóðlegum baráttudegi verkakvenna, 8.mars. Verkalýðsblaðið hafði samband við Ástu Þórarinsdóttur, sem er fulltrúi 8.mars-hreyfingarinnar í samstarfsnefnd hreyfinganna, til að spyrja hana frétta.

– Ásta, hvernig standa málin nú, rétt fyrir 8. mars?

– Vel. Við höfum komið okkur niður á sameiginlegan grundvöll fyrir kvöldfund sem haldinn verður í Félagsstofnun stúdenta og hefst kl. 20.30 Einkunnarorð fundarins eru: TIL BARÁTTU GEGN ALLRI KVENNAKÚGUN. Auk þess eru settar fram 12 kröfur. Þær eru: 1. Kvennabaráttu á grundvelli stéttabaráttu. 2. Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum. – 3. Fulla atvinnu – gegn fjöldauppsögnum. –4. Jöfn laun fyrir sambærilega vinnu. – 5. Góðar dagvistarstofnanir fyrir öll börn. –6. Sex mánaða fæðingarorlof fyrir alla. – 7. Jafnrétti til náms. – 8. Samfelldan vinnudag og mötuneyti í skólum. – 9. Kynfræðslu í skólum. 10. Ókeypis getnaðarvarnir. – 11. Sjálfsákvörðunarrétt kvenna til fóstureyðinga. – 12. Styðjum þjóðfrelsisbaráttuna í þriðja heiminum.

Fundarhópar hreyfinganna sjá um dagskrá samkvæmt þessum grundvelli. Fulltrúar hreyfinganna munu flytja stutt ávörp, sem kallast "Hvers vegna kvennabaráttu?" (Rauðsokkar) og "Kvennabaráttan er alþjóðleg" (8.mars-hreyfingin). Auk þess verður gestur frá Akranesi sem flytur ávarp. Samfelld upplestrardagskrá verður flutt en að undirbúningi hennar höfðu Rauðsokkar unnið mikið áður en til samstarfs kom. Innihald hennar snýst aðallega um stöðu verkakvenna og barna. Við gagnrýndum það að á Jafnréttissíðu Þjóðviljans 4. febrúar sl. sagði Margrét Rún í fundarhópi Rauðsokka, að efni



samfelldu dagskrárinnar væri ákveðið og taldi upp efnisatriðin, en það voru aðeins punktar eða drög Rauðsokka sjálfra. Fundarhópar hreyfinganna höfðu ekki einu sinni hist þá! Rauðsokkar hafa ekki verið fúsir til að taka gagnrýni þessa til greina, en að öðru leyti hafa þær sýnt samstarfsvilja. Án slíks vilja frá báðum aðilum hefði þetta samstarf engan vegið gengið, því ágreiningurinn er talsvert mikill.

ANNAÐ STARF 8.MARS-HREYFINGARINNAR

– Hvað um starf 8.mars-hreyfingarinnar að öðru leyti?

– Það eru starfandi tveir dagvistarhópar, dreifihópur og fundarhópur. Hreyfingin leggur aðaláherslu á dagvistarmál í ár, m.a. með því að taka þátt í dagvistarsamstarfi með fleirum. Það starf mun halda áfram eftir 8.mars. Um framhaldið hefur einnig komið fram hugmynd um að halda helgarráðstefnu, þar sem umræðuefnin yrðu t.d. reynslan af starfinu, framtíð 8.mars-hreyfingarinnar, heimsvaldastefnan og fjölskyldan. Sennilega verður haldinn liðsfundur fljótlega eftir 8. mars, sem tekur ákvörðun um þetta, sagði Ásta Þórarinsdóttir í 8.mars-hreyfingunni að lokum.



Lönd vilja sjálfstæði - þjóðir vilja frelsi - alþýðan vill byltingu

# Íranskt sjálfræði endurheimt

Atburðarrás byltingarinnar í Íran hefur verið mjög hröð síðustu mánuði. Nú er allt útlit fyrir að íranskri alþýðu hafi endanlega tekist að binda endi á keisaraveldið og jafnframt pólitísk og efnahagsleg ítök Bandaríkjanna í Íran. Trúarleiðtoginn Ayatollah Khomeini og sú stjórn sem hann hefur skipað undir forystu Bazargans, hafa lýst því yfir, að hið íslamíska lýðveldi muni innleiða fullt trúfrelsi og tryggja pólitísk réttindi þegnanna, jafnt karla og kvenna. Allir pólitískir fangar verða látnir lausir. Öllum pólitískum flokkum verður leyft að starfa, með einni undantekningu þó. Tudeh-flokkurinn, sem er endurskoðunarsinnaður, sovétvinsamlegur flokkur (ekki marx-lenínískur eins og ranglega var fullyrt í 1.tbl. VB 1979), verður áfram bannaður. Ástæðan er sú, að Khomeini telur hann hættulegan talsmann erlends valds, en eitt af höfuðmarkmiðum byltingarinnar var að tryggja sjálfstæði Írans gagnvart erlendu valdi.

Stjórnin segist ætla beita sér fyrir uppskiptingu jarða, og stefna að því að gera landið sjálfu sér nægt með matvæli, eins og það var fyrir 25 árum að mati Khomeinis. Eins og kunnugt er, hefur efnahagslíf Írans hingað til nær eingöngu byggt á olíuvinnslu og útflutningi og orðið mjög einhæft af þeim sökum.

BYLTINGIN LEIDD AF BREIÐRI SAMFYLKINGU.

Vestrænir fréttaskýrendur hafa gjarnan gefið í skyn, að baráttan gegn keisaraveldinu sé leidd af afturhaldssömum trúarleiðtogum, sem vilja færa íranskt þjóðfélag aftur um nokkrar aldir þróunarlega. Við höfum ekki farið varhluta af þessari túlkun í íslenskum fjölmiðlum.

Það sanna í málinu er, að baráttan hefur verið leidd af bandalagi tveggja breiðra hreyfinga. Annars vegar er múhameðska hreyfingin og hins vegar Þjóðfylkingin. Þjóðfylkingin er samfylking hinna ýmsu lýðræðislegu og þjóðlegu flokka og hreyfinga, þ.á.m. eru marx-lenínistar. Markmið þessarar hreyfingar er að berjast fyrir fullu sjálfstæði landsins á pólitíska, efnahagslega, félagslega og menningarlega sviðinu, m.ö.o. endurheimta sjálfræði landsins. Þjóðfylkingin hefur sjálfstæða stefnu í utanríkismálum sem er algjörlega óháð áhrifum risaveldanna.

Hingað til hefur Khomeini trúarleiðtogi virkað sem sameiningartákn íranskrar alþýðu, þar sem hann hefur tekið eindregna afstöðu gegn keisaraveldinu og fyrir sjálfstæði landsins. Það er því óhætt að segja að í þessari baráttu hefur Khomeini og hreyfing sú sem að baki honum stendur vissulega verið framsækin.

En hvað varðar stefnu hans í innanríkismálum gegnir e.t.v. öðru máli. Enn á eftir að uppfylla hin fögru loforð sem rakin voru hér í upphafi. Íranskri alþýðu er best treystandi til að meta þetta sjálf - eftir að hafa steypt einum harðstjóranum af stóli, er ólíklegt að hún líði það að annar slíkur taki völdin. Allt bendir til þess að írönsku byltingunni sé ekki lokið - enn eiga eftir að gerast afdrifaríkir atburðir.



Myndin sýnir andstöðu alþýðu Írans gegn báðum risaveldunum.

# Kampútsea -ráðstefna til að efla baráttuna



**Árás gerð á víetnamskt** innrásarlið í des. 1977. Slíkar árásir verða margar á næstu mánuðum. (Mynd Xinhua)

Daganna 1. og 2. febrúar var haldin í Kampútseu ráðstefna til að efla baráttuna gegn víetnömsku innrásinni. Rúmlega 400 fulltrúar, frá öllum landshlutum og starfsgreinum, sóttu ráðstefnuna, þar af voru 183 forystumenn skæruliðabaráttunnar í landinu. Ráðstefnuþátttakendur ræddu ástandið í landinu eftir innrásina, reynsluna af mánaðar baráttu gegn víetnamska liðinu og verkefnin framundan.

Niðurstaða ráðstefnunnar eru ótvíræður vitnisburður um það hvert stefnir í baráttunni. Meginverkefnin framundan eru að mati ráðstefnunnar:

1. Vörn þeirra valda sem verkalýður og bændur hafa haft í landinu. Eyða völdum kvislinganna sem Víetnam hefur reynt að koma til valda.
2. Efla varnirnar, efla stjórnsýslu og ná góðum tengslum meðal alþýðunnar til að efla hana pólitískt skipulagslega, bæta lífskjörin, og efla framleiðsluna.
3. Heyja skæruliðastríð, fylgjast með aðgerðum víetnömsku árásarseggjanna, berjast gegn þeim, þreyta og útrýma liði þeirra uppá hvern dag.

Ráðstefnan er enn ein sönnun þess að alþýða Kampútseu berst hetjulegri baráttu, nær góðum árangri og stefnir að frelsun landsins.

Nýjustu fréttir af gangi baráttunnar eru m.a.: Tilraunir innilokaðra herdeilda Víetnam í Battambang til að brjótast úr herkvínni hafa mislukkast. Kampútseumenn hafa náð góðum árangri við Mekongfljótið og tekist að stöðva marga leiðangra víetnama sem hafa þann tilgang að ræna hrísgrjónabirgðum Kampútseu.

Ætlan Víetnam er sú að innlima Kampútseu inn í Víetnam. Stofnun sambandsríkis er á dagskrá - og fyrir skömmu var Pham Van Dong, forsætisráðherra Víetnam, í Phnom Penh til að undirrita "friðar- samvinnu- og vináttusamning" við leppa sína Heng Samrin og co. Með þessum samningi er ætlunin að "lögfesta" veru víetnömsku herjanna í Kampútseu.

# Kínverska gagn - árásin...

Framhald af forsíðu

hröktu þá til baka, inn í Indland. Kínverjar eyðilögðu síðan hernaðarmannvirkin og kölluðu herlið sitt til baka eftir 33 daga bardaga. Ekkert tilkall var gert til indverskra landssvæða, stjórninni í Nýju Dehli var ekki steypt - en friður hefur ríkt á landamærunum og samskipti ríkjanna stórbatnað. Indverjar lærðu sína lexíu.

Gagnsókn Kínverja hefur einnig þann tilgang að sýna sósíalheimsvaldasinnum að þeir geti ekki stundað sína iðju óáreittir. Kína nýtir þá reynslu sem sagan hefur leitt í ljós. Að sumu leyti eru aðgerðir þeirra í dag sambærilegar við árás Sovétríkjanna gegn Finnlandi 1938. Tilgangur Sovétríkjanna var réttmætur þá. Þeir eyðilögðu hernaðarmannvirki sem nasistar byggðu til árása á Sovétríkin og styrktu þar með vígstöðu and-fasísku aflanna í komandi átökum við nasistahjarðir Hitlers. Einnig sýnir sagan að ef árásaröflin fá að fara sínu fram óáreitt þá hefur það í för með sér að hættunni er boðið heim. Innrás Hitlers - herjanna í Súdetahéruðin var ekki mætt með gagnárás - og því náði nasisminn að styrkja stöðu sína fyrir komandi átök.

ÁSTANDIÐ Í DAG

Ástand mála í dag er öðruvísi en árið 1962. Stríðshættan vex og síðustu atburðir í Suðaustur-Asíu sýna hvert stefnir. Umsvif Sovétríkjanna aukast um allan heim - þau hafa sent kúbanska málaliða inn í Angóla - í Eritreu sækja Eþíópíumenn gegn Eritreumönnum studdir kúbönskum og sovéskum ráðgjöfum og flugmönnum.

VÍETNAM Í DAG

Þróun mála í Víetnam frá því að þeim tókst að hrekja bandarísku heimsvaldastefnuna af höndum sér hefur verið mjög niður á við. Meginatriðin eru: Víetnam hefur bundist Sovétríkjunum sterkum böndum - landið er nú aðili að Comecon (efnahagsbandalagi Sovétríkjanna og leppa þeirra) Víetnam hefur gert samning við Sovétríkin á sviði hernaðarmála enda er Víetnam eitt af sterkari herveldum heims (því að í stað þess að fullnægja fæðuþörf landsmanna hafa þeir fægt byssustingina.) Víetnamska forystan hefur snúið baki við frelsishreyfingum annara þjóða, m.a. hafa þeir slitið sambönd við þjóðfrelsishreyfingarnar í Tælandi, Burma og Malasíu. Víetnam hefur eflt hernaðarmátt sinn geysilega (með aðstoð Sovétríkjanna) - ráðist inn í Kampútseu, hersetið Laós og byggt hernaðarmannvirki til árása á Kína. Enn eitt dæmið um að víetnamska forystan skoðar atburði í gegnum gleraugu Sovétríkjanna er stuðningur þeirra við innrásina í Tékkóslóvakíu 1968.

SOVÉTRÍKIN Á BAK VIÐ

Gagnárás Kína verður að skoðast í þessu ljósi - það er ekki um neina "nýja hlið" á Kína að ræða. Kína hefur ekki skipt um grundvallarstefnu. En hlutverk Kína í þróun heimsmálanna í dag er geysimikilvægt - Kína er í dag aðalbakhjarl þeirra afla sem berjast gegn stríðsundirbúningi risaveldanna. Það er Kína sem segir hreint út, að sósíalheimsvaldastefnan er meginógnunin við heimsfriðinn í dag. Það er því ekki út í hött þegar Kremlarherrarnir finna nú nauðsyn bera til að þenja áróðursmaskínu sína hátt, - og boðskapurinn er: Það er Kína sem ógnar heimsfriðnum og stundar linnulausar stríðsæsingar.

Viðbrögð ýmissa afla, hérlendis sem erlendis, gefa til kynna hvernig nú skal reynt að nota aðgerðir Kína til að snúa veruleikanum á haus.

En, niðurstaða allra andheimsvaldasinna hlýtur að vera þessi: Styðjum Kína - eflum baráttuna gegn stríðsundirbúningi sósíalheimsvaldasinnanna.

# PLO fær ísralelska sendiráðið í Teheran

Sunnudaginn 11.febr. stormaði fjöldi fólks inn í ísraelsku sendiráðsbygginguna í Teheran, "hreinsuðu þar svolítið til" og hengdu síðan upp skilti utan á bygginguna þar sem stendur skrifað bæði á ensku og persnesku: Sendiráð PLO. Ísraelskir sendiráðsstarfsmenn höfðu yfirgefið landið fyrir löngu síðan.

Yasser Arafat leiðtogi PLO hefur lýst yfir stuðningi sínum við hina nýju stjórn í Íran.

Það hafa lengi verið náin tengsl milli andstöðuhreyfingarinnar í Íran og palestínsku frelsishreyfingarinnar. Khomeini hefur alla tíð tekið afstöðu gegn síonismanum og hefur nú lofað að binda endi á alla olíusölu til Ísraels. Byltingin í Íran er því ekki aðeins mikill sigur fyrir íranska alþýðu, heldur einnig fyrir palestínsku byltinguna og raunar fyrir alþýðu alls heimsins. Bandarísku heimsvaldastefnunni og síonismanum hafa verið veitt sár, sem erfitt mun verða að græða og jafnvel draga til dauða, er til lengdar lætur

# Alþýðubandalagið í Kópavogi: Félagshyggja eða tæknikratar?

## AB OG STEFNAN

Uppistandið í Kópavogi og forsaga þess afhjúpar ákaflega mikilvægar staðreyndir um flokkinn. AB á sér enga stefnu í bæjarmálum almennt. Flokkurinn tekur þátt í starfi að bæjarmálum, í eða utan stjórna, án þess að eiga til mótaða stefnu. Nú er stjórnskipulag sveitarfélaga svipað um allt land og viðfangsefni hinna einstöku sveitarfélaga, t.d. kaupstaðanna í eðli sínu lík. Það er því alls ekki út í hött að hugsa sér að flokkur sem leggur þvílíka áherslu á "félagslegar" lausnir, "alþýðustuðning", "starf í þágu alþýðu" o.s.frv. eigi sér mótaða bæjarmálastefnuskrá, sem félagar flokksins hefðu almennan stuðning af í starfi sínu að bæjarmálum. Svo er ekki. AB tekur þátt í starfi bæjar- og sveitarstjórna á sama hátt og hinir flokkarnir, sem þó hafa það fram yfir AB að vera sauðtryggir eigin staðbundum auðherrum. Sósíalískur flokkur starfar ekki eins og AB. Sósíalískur flokkur verður að eiga sér mótaða bæjarmálastefnuskrá.

Það væri þá e.t.v. ekki til of mikils ætlast að AB eigi sér einhverja staðbundna stefnuskrá. Því geta félagar í AB í Kópavogi ekki fagnað. Víðar um land, þar sem Verkalýðsblaðið hefur leitað fregna, er ekki heldur um slíkt að ræða.

## FÉLAGSHYGGJA -TÆKNIKRATAR - RÓTTÆKIR-HÆGFARA

Það er líka athyglisvert að uppgjörið í Kópavogi er ekki milli AB og hinna, þe. afhjúpun á því hvernig það bæjarfélag er í rauninni rekið og því stjórnað. Uppgjörið er innan AB og því stillt upp af brotthlaupsmönnum, sem róttækri andstöðu við hægfara tæknikrata. Ekkert í rökstuðningi hinna róttæku gefur tilefni til að líta svo á, enda er hvorugur hlutinn hinum róttækari og báðir eru jafnaftarlega á merinni, þegar afrek þeirra eru skoðuð.

## UPPISTANDIÐ ER JÁKVÆTT

Klofningurinn í AB í Kópavogi er mjög jákvæður. Hann sýnir betur en margt annað hvað í AB býr. Hann sýnir að innan Alþýðubandalagsins geta menn farið að eftir eigin geðþótta og að ein klíkan vinnur gegn annarri. Þetta væri ekkert eftirtektarvert ef Ab segði ekki sjálft að flokkurinn væri einhuga og að félögum flokksins bæri að lúta stefnu flokksins í starfi sínu fyrir hann.

Uppistandið í Kópavogi er fyrst og fremst jákvætt fyrir það fólk sem stutt hefur þennan flokk, en ekki tekist að sjá hvernig hann vinnur í raun og veru. Það fólk sem vill starfa að framsæknum málum, sem er líka hægt að gera í bæjarmálastarfi, svo sem fjölgun dagvistarstofnana o.fl. fær ekki starfsvettvang með því að bíða eftir að AB geri eitthvað. Í hæsta lagi er hægt að búast við að AB taki til við að efna fögur loforð sín þegar þrýst er á.




# Án byltingarsinaðrar fræðikenningar – engin byltingarhreyfing!

"Án byltingarsinnaðar fræðikenningar getur ekki verið til nein byltingarhreyfing" sagði félagi Lenín í því stórmerka riti sínu "Hvað ber að gera".

Þessi orð Leníns um nauðsyn fræðilegs grundvallar í starfi kommúnista fela ekki aðeins það í sér að nauðsynlegt sé að skilja fræðikenninguna. Nei mun meira þarf að koma til. Fræðikenningunni verður að beita markvisst í starfi meðal fjöldans, að öðrum kosti verður hún aðeins skemmtileg hugarleikfimi sófakomma. Ef kenningin nær tökum á fjöldanum verður hún að efnislegu valdi, baráttan vex og sósíalisminn nálgast.

Því hlýtur það að verða eitt af höfuðmarkmiðum kommúnista að koma hinni byltingarsinnuðu fræðikenningu marxismans út til alþýðufjöldans og gera hann þannig stöðugt færari um að heyja sína baráttu sjálfur.

En til að þessum árangri verði náð er nauðsynlegt að starfa á nokkrum sviðum s.s. að beita persónulegum áróðri, halda úti öflugu blaði og síðast en langt í frá síst með útgáfu og dreifingu bóka og bæklinga er innihaldi bæði sjálfa kenninguna og beitingu hennar á ákveðnar aðstæður.

Svo sem mönnum er vafalaust kunnungt hefur Október-forlagið auk nokkurrar útgáfustarfsemi, starfrækt bókabúð um nokkurra ára skeið. Bókabúð þessi hefur tekið að sér að axla það ábyrgðamikla hlutverk að sjá til þess að byltingarsinnaðar sósílaískar bækur standi íslenskri alþýðu jafnan til boða. Reynt hefur verið að hafa á boðstólum sem breiðast úrval verka, jafnt frumkvöðlanna sem og þeirra er á þeim byggja.

Augljóst má vera að á frumstigi hvers verks er við mörg vandamál að etja og Október búðin hefur fengið sinn skammt af slíku. Okkar vandamál felast m.a. í illilegum skorti á innlendu lesefni, og litlu og þröngu úrvali erlends efnis o.s.frv.

Ekki eru þessi vandamál þó óyfirstíganleg, fjarri því, enda hefur okkur miðað vel áfram t.a.m. á síðasta ári. Skilyrði þess að sú þróun haldi áfram er að allir þeir sem láta sig baráttu kúgaðra stétta, hópa og þjóða einhverju skipta styðji við bakið á búðinni með því að leggja lykkju á leið sína og koma við á Óðinsgötu 30, kynni sér það efni sem á boðstólum er og bendi okkur á það sem betur má fara.

Markmiðið er að fólk líti á Október búðina sem sína bókabúð.

Forlagsráð

# Rauðliðaherferðin

Söfnunin er nú að skríða af stað. Takmarkið er að safna 100 nýjum áskrifendum. Nú hafa borist 16 nýir. Greinilega þurfum við að taka á honum stóra okkar svo settu marki verði náð. Félagar og stuðningsmenn!

Setjið ykkur það markmið að afla a.m.k. 1 nýs áskrifanda, en helst fleiri. Það kostar aldrei neitt að spyrja vini og kunningja eða vinnufélaga. Áfram með smjörið!

**Styrkið EIK (m-l) gíró 57070 - 2**



# Sókn...

Framhald af forsíðu.

aldurshækkunum fyrstu fimm árin. Einnig var krafist sama vaktaálags og ríkisstarfsmenn hafa, og endurbóta á veikindadögum og sumarleyfi. Samningarnir hljóðuðu upp á laun frá 164 þús. (ca.) til 181 þús. eftir fimm ára starf, og starfsaldurshækkunum var fækkað um tvö þrep. Hinum kröfunum var sleppt nema hvað einn dagur bættist við sumarleyfið! Stjórn félagsins reyndi að sjálfsögðu mjög að gylla samningana, og hafði Aðalheiður formaður mörg orð um ýmsar smærri leiðréttingar sem fram náðust. Voru þær sjálfu sér góðra gjalda verðar, en dugðu þó skammt til að bæta skammarlega lágt kaup. Til að tölurnar sýndust ekki alveg eins lágar, var mikið veifað kaupupphæðum að viðbættum vísitölubótum frá 1. mars! Það verður aldrei nægilega bent á, að vísitölubætur eru ekki kauphækkun heldur bætur fyrir kauprán.

Fundurinn einkenndist af vaxandi baráttuhug félagskvenna og megnri óánægju með undansláttarstefnu stjórnarinnar. Á fjórða hundrað konur sóttu fundinn, og atkvæði um samningana féllu þannig, að 192 sögðu já, en 122 sögðu nei. 11 skiluðu auðu eða ógildu. Samningarnir voru því samþykktir, en athyglisvert er, hve andspyrna gegn lélegum samningum eykst innan Sóknar. Æ fleiri konur sjá, að það þarf baráttu til að bæta kjörin og ná launajafnrétti við hliðstæða hópa innan BSRB.

# saltfisk...

Frh. af baksíðu

flokki kostaði kr. 89 í fyrra og kr. 124 nú. Síld sem er aðalhráefni Stemmu hf., er ódýrari. Í A-flokki, 33 sm eða lengri var verðið í október s.l. 97 kr.

Hér er því gífurlegur munur á verði hráefnis, sem notað er til söltunar, og svo söluverðs á Evrópumarkaði. Samt verður að moka fjármagni í saltfiskframleiðsluna til að halda henni gangandi! Með öðrum orðum: Hvað verður um allan mismuninn?

Verkalýðsblaðið bar það undir Friðrik Pálsson hjá SÍF, hvort SÍF ætti dótturfyrirtæki erlendis, eða hvort fyrirtækið ætti hlutafé í fyrirtækjum erlendis. Hann kvað svo ekki vera. SÍF mun hafa einokun á saltfiskmarkaði Íslendinga, hliðstætt því sem Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna og Sambandið einoka útflutning á frosnum fiski. Gróði Sambandsins og SH af fisksölu í gegn um dótturfyrirtæki erlendis skilar sér ekki inn í framleiðsluna hér á landi, heldur situr eftir úti. Það er ein orsök fjármagnskreppu auðvaldsins á Íslandi. Gróði saltfiskútflytjenda er síður en svo rýrari, en að þeirra sögn skilar sér allt heim. En hvar lenda fúlgurnar? Trúlega í vasa fámenns hóps manna sem ræður framleiðslutækjunum. En á sama tíma láta þeir opinbera sjóði (Verðjöfnunarsjóð fiskiðnaðarins) ausa peningum í fyrirtæki sín.

# Í Kína finnst..

Frh. af bls. 5

lögðu alla áherslu á "pólitíska uppfræðslu og baráttu", svo mikla, að þeir fáu læknar sem útskrifuðust voru illa að sér í fræðunum, það gleymdist að skrifa sjúkraskýrslur, ganga stofugang og sinna sjúklingunum eins og nauðsyn var. Nú hefur læknanámið verið lengt í 5 ár, kröfur til þekkingar auknar og illa menntaðir læknar settir á skólabekk á ný. Hugmyndafræðileg uppfræðsla í marx-lenínismanum er engu að síður fastu og nauðsynlegur liður í læknamenntuninni.

## MIKLAR REYKINGAR

Miklar og almennar reykingar Kínverja vöktu athygli íslensku gestanna. Aðspurðt virtist fólk ekki meðvitað um skaðsemi reykinga. Ekki heldur virtust menn almennt skynja samband reykinga og ýmissa sjúkdóma, sem læknar á Vesturlöndum og víðar telja fyrir löngu sannað að sé fyrir hendi.

Páll sagði, að þeir hefðu séð aðeins örfáa vangefna einstaklinga og um þjónustu við vangefna hefðu litlar upplýsingar fengist. Þó virtist engin sérkennsla fyrir vangefna vera fyrir hendi., en málefni þessa hóps voru sögð í athugun yfirvalda.

Þá sagði Páll að í Kína væri enginn einasti sálfræðingur (þar myndi Albert Guðmundssyni líka lífið!), enginn félagsráðgjafi. Og þar rákust Íslendingarnir á geðlækna sem aldrei höfðu heyrt minnst á sálfræðispekinginn Freud. Aðrir höfðu heyrt minnst á Freud en sögðu Kínverja ekkert hafa að gera við kenningu hans, sem byggði að miklum hluta á kynhvötinni. Mátti heyra á Páli, að kínverskt heilbrigðiskerfi hefði gott af því að kynnast sálfræðilegum meðferðum og benti á ákveðið dæmi því til stuðnings. Var þar um að ræða börn sem urðu fyrir barðinu á umhverfi sínu, en kínverskir læknar sem önnuðust þau, vildu leita að örsökum meina þeirra í líkamanum sjálfum en ekki umhverfi barnanna.

Stórfróðlegt var líka að sjá myndir af fólki sem kínverskir læknar höfðu grætt á líkamshluta, þannig að ótrúlega lítið var hægt að sjá af ummerkjum. Sum dæmin eru heimsfræg, t.d. maður sem misst hafði fót fyrir nokkrum árum. Fóturinn var græddur á með slíkum ágætum að maðurinn og læknar hans eru nú komnir í skólabækur læknanema um heim allan (þar á meðal í Háskóla Íslands). Eru dæmi um að líkamshluti hafi verið græddur á sinn stað 36 klst. eftir að hann varð viðskila við líkamann af völdum slyss.

Páll Ásgeirsson lauk frásögn sinni á því að segja, að vonandi yrði starf Kínavina á Íslandi í framtíðinni að einhverju leyti aðstoð við uppbygginguna þar og kvaðst sjálfur hafa fullan hug á því að leggja lið við að bæta heilbrigðiskerfið í Kína.

Þess má að lokum geta, að næsti félagsfundur KÍM er 13. mars á Hótel Esju kl. 20.30. Fundarefni er enn óvíst. Þar er tekið við nýjum félögum, en einnig má skrifa í pósthólf 843 eða hringja í síma 12943 (Arnþór). Gangið í KÍM!

KÍM-ari

**VERKALÝÐS BLAÐIÐ**

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
½/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212





## Hornfirsk dæmisaga:

# Er hægt að reka EIGENDUR fyrirtækis úr starfi?

Hvernig er hægt að reka eigendur fyrirtækis úr starfi? Spurningin er jú furðuleg, en þetta virðist ganga á Höfn í Hornafirði, en með dálítið sérstæðum hætti þó. Um er að ræða 30 síldarsöltunarstúlkur hjá fyrirtækinu Stemma hf. Fiskvinnsluhús Stemmu brann til kaldra kola í fyrra, og þegar vinnsla hefst þar á ný að hausti, verða stúlkurnar 30 (hluti af "eigendunum") að víkja fyrir nýjum vélabúnaði.

## Orfá orð um brunann í Stemmu

Fyrirtækið Stemma hf. á stutta en litríka sögu. Það var stofnað 1977. Aðalverkefnið var söltun á síld. Eins og fyrr segir er þetta hlutafélag dálítið sérstakt að því er varðar formlega uppbyggingu, en mun að öðru leyti ekki vera frábrugðið öðrum fiskvinnsluhúsum hér á landi.

Í fyrra gerðist svo það, að splunkunýtt stálgrindahús Stemmu brennur til grunna, ásamt öllu sem inni í því var. Þar á meðal brunnu allir pappírar varðandi rekstur fyrirtækisins. Upptök eldsins hafa aldrei verið kunngerð. (Í dagblöðum var greint frá því að svokölluð "Rauð herdeild" hefði lýst brunann sitt verk, en almennt var álitið að hér væri um grátt gaman að ræða. En dag nokkurn kom maður , sem kynnti sig einn af eigendum Stemmu, inn í Október-búðina í Reykjavík, og var að grennslast fyrir um það hvort EIK-arar hefðu átt sökótt við Stemmu - og jafnvel kveikt þar í!! Vakti heimsóknin talsverða kátínu, en manninum var tjáð að það væri nú ekki beinlínis stefna EIK(m-l) að brenna verksmiðjur og fiskvinnsluhús!)

Hús Stemmu var tryggt fyrir rúmlega 100 milljónir króna. Strax eftir brunann hófst enduruppbygging hússins á gömlum grunni. Er um að ræða steinsteypt einingarhús, sem Ístak reisir. Áætlaður byggingarkostnaður er um 70 milljónir.

Stjórnarformaður Stemmu hf. er Unnsteinn Guðmundsson, en hann er jafnframt umboðsmaður tryggingarfélaganna Ábyrgð og Brunabótafélagsins, en hið síðarnefnda mun vera tryggingaraðili Stemmu. Verkalýðsblaðið spáir, að ekki verði erfitt að kría út tryggingarféð fyrir Stemmu.

# Sæluríki hlutafjáreigenda

Verkalýðsblaðið hefur fyrir satt, að starfsfólki muni fækka um 30 þegar vinnsla hefst aftur í nýju húsnæði. Þegar verkafólkið hjá Stemmu var flest, voru þar um 80 manns. Nýjar vélar munu gera 30 söltunarstúlkur óþarfar og þær munu ekki endurráðnar. Hér er um óbeina uppsögn að ræða - og því er spurt: Hvernig er hægt að reka "eigendurna" úr starfi. Að sögn Kristjáns Gústafssonar, framkvæmdastjóra Stemmu, eiga starfsstúlkurnar, ásamt "bátaeigendunum" fyrirtækið.

### HVER Á STEMMU?

Það getur stundum vafist fyrir að finna eigendur fyrirtækja, en ritið "Viðskipti og þjónusta", sem er skrá yfir ísl. fyrirtæki, segir svo fallega um Stemmu: "Almenningshlutafélag um síldarsöltun, þar sem starfsfólkið eru eigendur".

Við slóum á þráð til Kristjáns Gústafssonar til að fá nánari upplýsingar. Hann sagði þetta rétt vera, eigendur væru líka eignalaust fólk, síldarstúlkur o.fl. Einnig bátaeigendur (þar á meðal Kristján sjálfur). "Hjá okkur ríkir bjartsýnishugur", sagði framkvæmdastjórinn.

Kristján sagði, að á síðasta ári hafi verið greiddur arður af hlutafé, en í þeim tilfellum að fyrirtækið skilar ekki hagnaði, er reynt að borga hlutafjáreigendum sem svarar vöxtum af hlutafénu.

# Útbreidd sæng stéttasamvinnunnar

Þorsteinn Þorsteinsson, formaður verkalýðsfélagsins Jökuls á Höfn, sagði m.a. í ræðu við opnun frystihúss Kaupfélagsins á staðnum 29. janúar 1977:

"Vinnustaðurinn er sá vettvangur, sem verkafólkið dvelur á drjúgan hluta starfsævi sinnar, og ef verkafólkið og atvinnurekendur leggjast á eitt með að gera vinnustaðinn aðlaðandi, þá er vel farið. Höfum það hugfast að hér verða báðir aðilar að eiga jafnan hlut að" (undirstrikun VB)

"Það hlýtur að vera okkur sérstök ánægja, að þetta glæsilega mannvirki skuli vera í eigu fólksins í þessu byggðarlagi. Og alveg sérstaklega ber okkur að hafa það hugfast. Það erum við, hinir almennu félagsmenn, sem höfum veitt þeim framsýnu forystumönnum umboð til þessa stórvirkis, og þeirra framsýni hljótum við að þakka". (Þjóðviljinn 24. feb.'77)

Vel mælist verkalýðsforingjanum á Höfn. Hann er sama markinu brenndur og svo margir kollegar hans í forystu verkalýðshreyfingarinnar: Alltaf boðinn og búinn til að lýsa ánægju með "samvinnu og frið" atvinnurekenda og verkafólks. Hvað þá með "fyrirtæki fólksins"! Þvílík dásemd. Starfsfólkið, eða hluti þess, á fáein hlutabréf, en "eign" þess forðar ekki því að 30 manns skal sagt upp. Raunverulegu völdin eru auðvitað í höndum borgaranna á Höfn, svo sem Kristjáns framkvæmdastjóra Stemmu og Hermanns Hanssonar, kaupfélagsstjóra. Afstaða Þorsteins verkalýðsforingja er hagstæð þessum raunverulegu eigendum/stjórnendum fyrirtækja á Höfn. Næsta verkefni Þorsteins verður ef til vill það, að útskýra fyrir 30 síldarsöltunarstúlkum, að uppsögn þeirra sé þeim í hag og fyrirtækinu þeirra.

Svar stúlknanna og verkafólks á Höfn, er skipulögð barátta gegn atvinnurekendavaldinu og fölskum verkalýðsforingjum.

# Hvar er saltfiskgróðinn?

Saltfiskverkun er gömul og gróin atvinnugrein á Íslandi. Hún á rætur að rekja langt aftur í tímann, átti blómaskeið á dögum Kveldúlfs og Alliance, einokunarfyrirtækjanna miklu.

Samkvæmt skýrslum Sölusambands ísl. fiskframleiðenda (SÍF), en það er sölusamband saltfiskframleiðenda og hefur einkaumboð fyrir allan saltfiskmarkað Íslendinga, var fluttur út saltfiskur fyrir 17 milljarða kr. í fyrra. Eða um 39000 tonn af fiski, aðallega þorski. Samkvæmt því er kílóverðið kr. 436.

Nú í ár selur SÍF 7000 tonn af saltfiski til Spánar fyrir 5 milljarða, eða 714 kr. kílóið. Það er, 60% hærra meðalverð en í fyrra. Að sögn SÍF er Spánarverðið aðeins 20% hærra en í fyrra. Ef heildarútflutningur saltfisks á síðasta ári er umreiknaður í "spánskt meðalverð" yfirstandandi árs, fáum við út töluna 23.2 milljarða króna. Er markaðsverð á Spáni svo miklu hærra en annars staðar í Evrópu?

"Afkoma saltfiskframleiðslunnar bágborin 1978" segir Morgunblaðið í janúar s.l., og er það haft eftir Friðriki Pálssyni, framkvæmdastjóra SÍF: " ....Hefur SÍF þurft að gera síauknar kröfur til Verðjöfnunarsjóðs sjávarútvegsins um greiðslur úr honum til að halda framleiðslunni gangandi, þó svo að það stríði gegn skoðun saltfiskframleiðenda á notkun sjóðsins" (!), segir ennfremur í frétt Mbl.

Frystihúsin borguðu kr. 110 pr. kg. í fyrra fyrir stóran þorsk, 70 sm eða lengri, í 1. flokki; kr. 140 er verð fyrir sama flokk/stærð í ár. Millistærð þorsks (54-70 sm) í 1.

Frh. á bls. 7



Helstu útflutningslönd Sölusambands Íslenskra Fiskframleiðenda.



Friðrik Pálsson, framkvæmdastjóri SÍF. Einnig á hann sæti í verðlagsráði sjávarútvegsins.